VERKALÝÐS-BLAÐIÐ

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

MÁLGAGN EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (M-L) 2. árg. 12. Tbl. DES. 1976 100 kr.

**Oft er þörf - nu er nauðsyn!**

Sjá baksíðu

**ÞJÓÐVILJINN 40 ÁRA**

Sjá bls. 5

# Svik ASÍ-forystunnar við verkafólk afhjúpast endanlega

## „Þingsalabaráttan er mikilvægari en fjöldabarátta vinnandi alþýðu"(!)

Á 33. þingi ASÍ reyndi ekki einu sinni forystan að neita því að staða verkalýðshreyfingarinnar í dag væri heldur óglæsileg. Kjaraskerðingarherferð ríkisvalds auðherranna hefur fengið að velta kreppunni algerlega yfir á launafólk og smáframleiðendur, eins og best sést á þeirri staðreynd, að öll stærstu fyrirtæki landsins (t.d. SÍS-fyrirtækin) skiluðu stórauknum gróða árið 1975 - samkvæmt eigin útreikningum! Á sama tíma hefur kaupmáttur launa minnkað um 30-40% síðan í febrúarsamningunum 1974. Vert er að minna á, að vinstristjórnin lagði grundvöllinn að kjaraskerðingunni með þenslupólitík sinni. Síðasta kveðja hennar til fólksins í landinu var að rjúfa samstöðu kaupgjalds og verðlags - "taka vísitöluna úr sambandi". Síðan hefur ASÍ-forystan reynt að dansa á þeirri hálu braut að gera hvort tveggja í senn: að koma í veg fyrir alla raunverulega baráttu gegn kjaraskerðingunni og tryggja þannig hagsmuni gróðamanna og jafnframt að sefa sívaxandi óánægju almenns verkafólks með stórum orðum og alls kyns villandi yfirlýsingum.

ASÍ-þingið sýndi glöggglega að andstaðan innan samtakanna fer vaxandi. Á þinginu var um að ræða andstöðuvæng, meira og minna skipulagðan, "órólegu deildina" svokölluðu. Þingið sýndi þó jafnframt, að meðvituð barátta gegn stéttasamvinnunni er enn á algeru frumstigi.

**Skammdegis-boðskapur ASÍ-þings**

Alþýðubandalagið og stéttasamvinnan

Stærsti veikleiki andstöðunnar er sá, að hún er að miklu leyti undir forystu í hópi

framh. bls. 5



Hinn mikli leiðtogi albanskrar alþýðu og formaður Flokks vinnunnar, Enver Hoxha, heilsar fulltrúa EIK (m-l), Sigrúnu Huld, og öðrum félögum með því að bjóða albanskt bakkelsi.

(Mynd: Zeriipopullit)

# Kennarar krefjast leiðréttingar mála sinna

### segir Gerður Kristjánsdóttir

Kennarar í neðri bekkjum grunnskólans standa nú eins og kunnugt er í kjarabaráttu. Verkalýðsblaðið brá sér til Kópavogs til þess að fá nánari upplýsingar og ræddi við Gerði Kristjánsdóttur trúnaðarmann kennara í Kársnesskóla.

Vbl: Hvað varð til þess að kennarar hófu þessa kjarabaráttu núna?

GK? Fyrst og fremst almenn óánægja með kjörin. Og svo þegar líða tekur á veturinn þá fara að koma í ljós ýmsir vankantar í nýju grunnskólalögunum sem við kennarar verðum áþreifanlega varir við. Frá okkar bæjardyrum séð þ.e. almennra kennara, þá viljum við brjóta hvert mál til mergjar um leið og það kemur upp.

Vbl: Hvaða mál er þá mest í brennipunkti hjá ykkur núna?

GK: Samkvæmt nýju lögunum falla niður öll mánaðarfrí í skólum auk þess að jólafríið hefur verið stytt um 5 daga. Það hefur verið reiknað út að á fimm ára tímabili er að meðaltali búið að taka af okkur 7,2 daga án þess að fá nokkuð í staðinn. Þetta er höfuðmálið hjá okkur í dag. Við krefjumst þess að fá að halda mánaðarfríunum og gamla jólafríinu, ekki bara okkar vegna heldur einnig vegna krakkanna. Við teljum það ekki gott að frídögum þeirra fækki. Og til að leggja áherslu á þetta atriði héldum við okkar mánaðarfrí í nónember. Sem sagt fórum í verkfall.

Vbl: Voru kennarar við þennan skóla þeir einu sem héldu mánaðarfríið þann 8. nóv?

framh. bls. 5

# Dagvistarsamtökin stofnuð í Reykjavík

1. nóvember s.l. héldu fóstrur, foreldrar og annað áhugafólk um dagvistarmál sinn fyrsta fund. Á þeim fundi voru settir af stað starfshópar um greinaskrif, stefnumótun og aðgerðir. Árangur af starfi þessara hópa varð svo stofnfundur Dagvistarsamtakanna 20. nóvember s.l. Í starfsgrundvelli stendur m. a.:

"Aðalmarkmið samtakanna er að öll börn á forskólaaldri eigi rétt á dagvistun. Samtökin telja dagvistun þessara barna forsendu fyrir jafnrétti til náms og starfs. Meginástæður þessarar afstöðu eru tvær: Annars vegar eru börnin í eðlilegum félagssamskiptum við önnur börn í dagvistun og hins vegar eiga báðir foreldrar rétt á að sækja vinnu. Af þessu leiðir að samtökin berjast fyrir fleiri og betri dagvistarheimilum og bættri starfsaðstöðu starfsfólks þeirra".

Af framansögðu leiðir, að samtökin setja fram eftirfarandi kröfur:

I. Fleiri dagvistarheimili - öll börn eiga rétt á dagvistun.

II. Nýbyggingar og frágangur: 500 milljónir úr ríkissjóði strax.

framh. bls. 5

# RANNSÓKNIN BLEKKING!

### Mikil barátta gegn álveri

Undanfarið hefur þögn verið í herbúðum þeirra sem boða komu álvers við Eyjafjörð. Virðist sem þeir vilji ekki láta reyna á það strax hvort þeir ná auðveldlega að fá álverið reist. Þetta þýðir samt ekki að þeir séu fallnir frá þeirri hugmynd sinni að reisa álver. Einokunarauðvaldið og ríkisvald þess siglir markvisst eftir sinni stóriðjustefnu. (Þ.e. að reisa hér ný og ný erlend stóriðjuver og grafa þannig smám saman undan efnahagslegu sjálfstæði þjóðarinnar.) Þessum aðilum finnst nú tryggara að bíða betri tíma með sinn áróður t.d. væri betra að nota svolítið atvinnuleysi máli sínu til framgangs. Atvinnuleysi eykst hratt m.a. þegar framkvæmdum við Sigöldu og Kröflu verður hætt. Fulltrúar einokunarauðvaldsins á Akureyri til dæmis Valur Arnþórsson og Helgi Bergs

framh. bls 4

**25 búðir verði opnar áfram!**

Sjá bls.3




Ábyrgðarmaður: Albert Einarsson

# ÁR Í ANNARS STAÐ ÁR RAUÐRA FÁNA

Árið 1976 fer nú senn að kveðja. Það er um margt merkilegt ár. Árið 1976 er fyrirboði verulegrar kreppu, þar sem kjaramálum er svo komið, að dagvinna verkafólks hrekkur ekki einu sinni fyrir helmingi framfærslukostnaðar. 33. þing ASÍ lofar nú "baráttu" eftir að ASÍ-forystan hefur haft hönd í bagga með auðstéttinni og ríkisvaldinu í árásum á kaup og kjör verkafólks. Sú "barátta á að vera kosningabrölt, svo að Alþýðubandalag, Alþýðuflokkur og fleiri leiðitamir auðvaldsþjónar nái tökum á nýrri ríkisstjórn. Síðan á að fara eftir "greiðsluþoli atvinnuveganna" sem "þola nú kjarabætur" skv. orðum ASÍ-þingsins. Þegar svo kemur að því að kaup verður hækkað um fáeinar krónur, þá taka við auknar skattaálögur og aðrar "nauðsynlegar ráðstafanir" sem gera launahækkanir að engu og hrunadansinn hefst að nýju.

## Rányrkjan.

Árið 1976 var rányrkju haldið í sama horfi og fyrr á Íslandsmiðum. Skuttogarar "hægri og vinstri stjórna" tóku þann fisk sem Evrópuauðvaldinu var ekki seldur fyrir tollasamninga og önnur fríðindi. "Svartar" skýrslur duga skammt í baráttu við gróðasjúkt ríkisauðvald sem nú hrósar skammvinnum sigri og reynir að blekkja fólk með þvættingi um að bretar hafi horfið af Íslandsmiðum. Sannleikurinn er að Efnahagsbandalagið er að semja um veiðiheimildir til handa þjóðverjum, bretum og belgum, en pólverjar og fleiri A-Evrópuþjóðir bíða átekta eftir samningum. Ríkisstjórnin ætlar sér ofan á allt, að taka þátt í þjófnaði EBE á grænlenskum auðlindum svo ekki sé minnst á síldardrápið í Norðursjónum. Árið 1976 sýnir, að allir stjórnmálaflokkarnir eru fylgjendur rányrkju, ef hún er íslensk og þeirri landsölustefnu sem selur efnahagslegt sjálfstæði landsins fyrir skjótfenginn gróða.

## Heimsvaldastefnan.

Árið 1976 var mikið sigurár andheimsvaldaaflanna í heiminum og sósíalísku ríkjanna, með Kína og Albaníu í broddi fylkingar. Hvarvetna eflast þjóðfrelsis-, sjálfstæðis- og aðrar framsæknar hreyfingar. Fulltrúar PAC, frelsissamtakanna í Suður-Afríku (Azaníu) sögðu: Alþýðustríðið og fjöldinn eru óstöðvandi undir forystu verkalýðsstéttarinnar og marx-lenínista", í viðtali við Verkalýðsblaðið í haust. En samtímis framsókn alþýðunnar auka hin hættulegu auðvaldsrisaveldi, Bandaríkin og Sovétríkin, vígbúnað sinn og viðsjár.

Hættan á nýrri heimsstyrjöld vex með hverjum nánuði sem líður en risaveldin ásamt hlaupasnötum, reyna að fela þá staðreynd. Á árinu 1976 tókst ekki að koma hreyfingu herstöðvandstæðinga á Íslandi á réttan grundvöll – með baráttu gegn báðum risaveldum sem höfuðmarkmið. Sú krafa á þó vaxandi fylgi að fagna. Sovétríkin æfa beinar árásir á Ísland, en erlendir auðhringar, nú aðallega norskir sækja að úr öllum áttum. Orkan á Íslandi skal seld hæstbjóðendum og stóriðjustefna auðvaldsins og Alþýðubandalagsins: "hagkvæm stóriðjuver með meirihlutaaðild ríkisins " opnar þeim allar gáttir. Árið 1976 vekur því fólk til varnar.

## "Vinstri" hreyfingarnar.

Árið 1976 var ár hræringa á svonefndum "vinstri" – kanti í íslenskum stjórnmálum. Alþýðubandalagið er nú í óðaönn að reyna að faðma alla "vinstrisinna" annars vegar, en brýna falsmarxisma sinn í baráttu við byltingarsinna og kommúnista hins vegar. En í stéttabaráttunni og skipulagningu alþýðubaráttunnar er flokkurinn rekald og stendur í vegi fyrir sérhverri framsækinni aðgerð. Fylkingin er nú endanlega horfin á vit ruglanda og upphlaupamennsku kennda við liðhlaupann Leon Trotsky, en flokkur sem stofnaður var undir nafninu Kommúnistaflokkur Íslands(m-l) stendur á milli tveggja elda og kemst hvergi í bili. Endurskoðunarstefna flokksins stendur í vegi fyrir framsókn marx-lenínismans og útkoman er hentistefna og endurskoðunarstefna.

EIK(m-l) hafa þétt raðir sínar og gert upp við ranghugmyndir og villur 1. starfsársins. Nú liggur fyrir sameiningargrundvöllur ísl. marx-lenínista og verkalýðsstéttarinnar frá samtökunum – grundvallaratriði réttrar stefnu í íslenskri stéttabaráttu.

Árið 1976 táknar upphafið að sigri marx-lenínismans yfir henti- og endurskoðunarstefnu Alþýðubandalagsins, Fylkingarinnar og KFÍ/ML – mikilvægustu skrefin í smíði hins marx-lenínska kommúnistaflokks verkalýðs og alþýðu.

## Skin og skúrir.

Félagi Mao Tsetung lést í upphafi vetrar. Hundruð milljóna manna um heim allan syrgðu hinn vísa forystumann. En um leið fögnuðu þær þeim yfirtökum sem kínverskir kommúnistar og alþýðufjöldi Kína undir forystu Hua Kuo-feng hafa í stéttabaráttunni heima fyrir – tryggingu gegn sigri gagnbyltingaraflanna.

Í Albaníu, einu minnsta ríki Evrópu, héldu kommúnistar sitt 7. flokksþing fyrir skömmu. Félagi Enver Hoxha, virtasti marx-lenínisti sem nú er uppi, gaf þar skýrslu um framfarir og sósíalíska sigra eina sósíalistaríkis Evrópu. Hann og félagar hans héldu marx-lenínismanum hátt á lofti og gefa okkur í EIK(m-l) og öllum bræðrahreyfingum okkar sem saman voru komnar í Albaníu, þessa sigurdaga í nóvember, hið besta fordæmi.

Gerum árið 1977 að sóknarári kommúnista og framsækinnar alþýðuhreifingar.

Megi komandi ár verða ár rauðra fána!

# VEGIÐ AÐ RÉTTINDUM VERKAFÓLKS

Eins og flestum er kunnugt sem fylgst hafa með baráttu verkalýðs hér á landi, hefur félagsmálaráðherra látið semja frumvarp til laga um stéttarfélög og vinnudeilur. Þetta frumvarp hefur þó ekki komið enn fram á Alþingi, heldur er beðið "betri" tíma.

Í stuttu máli sagt, gengur frumvarpið út á að þrengja lýðréttindi verkafólks með því að auka vald ASÍ-forystunnar og sáttasemjara (fulltrúa ríkisvaldsins) í samningamálum og með því að skerða verkfallsréttinn. Það er því hinn þríhöfðaði þurs, atvinnurekendur, ríkisvald og ASÍ-forystan, sem hefur ástæðu til þess að kætast yfir frumvarpinu.

Verkalýðsblaðið telur ekki ástæðu til þess að tíunda einstakar greinar þessa makalausa frumvarps, enda hefur það verið rækilega kynnt á öðrum vettvangi. Við teljum hins vegar nauðsynlegt að benda á eftirfarandi atriði:

Viðbrögð forystumanna ASÍ við áðurnefndu frumvarpi voru í fyrstu mjög óljós og hikandi. Þó lýsti Björn Jónsson því yfir, að aukið vald sáttasemjara og miðstjórnar ASÍ væri augljóslega til bóta fyrir sambandið (aukaatriði hvað þetta þýðir fyrir hinn almenna félaga verkalýðssamtakanna!) . Þar með lagði forseti ASÍ blessun sína yfir mikilvæg atriði í frumvarpinu.

Líklegt er að ASÍ-forystan neyðist til að fara dult með samþykki sitt á meginhluta frumvarpsins. Það sannaðist líka á þingi ASÍ nú nýverið, að frumvarpið mætti víðtækri samstöðu og kaus þá forystan að þegja þunnu hljóði. Í verkalýðsfélögunum sýður óánægjan niðri vegna getu- og viljaleysis ASÍ-forystunnar gagnvart því óhemjulega kaupráni sem stöðugt magnast og alltaf gerast atlögurnar gegn lýðréttindum verkalýðs ósvífnari. Verkafólk skynjar vel að fyrirhugaðar breytingar á vinnulöggjöfinni eru aðeins hugsaðar til þess að herða enn arðránið á því sjálfu. Mörg stór verkalýðsfélög og ráðstefnur verkafólks hafa samþykkt harðorðar ályktanir gegn vinnulöggjöfinni. Hins vegar hafa stjórnir þessara félaga reynt eftir megni að kæfa eða vísa frá öllum tillögum um það, að félögin hefji upplýsingaherferðir og beinar aðgerðir gegn frumvarpinu. Þetta sýnir, að flestar stjórnir félaganna fordæma frumvarpið aðeins í orði en ekki á borði. Þær vilja ekki fjöldabaráttu innan félaganna sem gæti orðið það öflug og almenn að tækist að hindra allar hugmyndir um breytingar á vinnulöggjöfinni. Stjórnir verkalýðsfélaganna vilja "gefa ASÍ-forystunni starfsfrið" til makks við atvinnurekendur og ríkisvaldið, um hvernig breytingum á vinnulöggjöfinni verði við komið þannig að það vekji sem minnstan "óróa" í verkalýðsfélögunum og að vald ASÍ-forystunnar og sáttasemjara verði jafnframt tryggt um aldur og ævi. Fyrir þjónslund sína og samningalipurð, munu ASÍ-broddarnir ábyggilega hljóta nokkur embættin í viðbót og sæti í vellaunuðum nefndum og ráðum ríkisins.

## Svar verkalýðs: fjöldabarátta

Til þess að hrinda af stað skipulagðri fjöldabaráttu innan verkalýðsfélaganna þarf að mynda samfylkingu baráttufúss verkafólks og félaga, þar sem sett er í fyrirrúm það markmið að berja niður með góðu eða illu allar hugmyndir um breytingar á vinnulöggjöfinni. Fyrsta hlutverk slíkrar samfylkingar þarf að vera, að gefa út upplýsingarit (flugrit til dreifingar meðal almennings) um eðli frumvarpsins og það hvað staðfesting þess mun hafa í för með sér fyrir verkalýðinn. Síðan á að gangast fyrir mótmælaaðgerðum í ýmsum myndum og þrýsta á allan mögulegan hátt á atvinnurekendur og ASÍ-forystuna, þannig að þessir aðilar leggi rófuna á milli fóta og dragi frumvarpið til baka.

### Hvort er mikilvægara:

# Hagsmunir flokka eða verkalýðs?

ASÍ-þingið sem nýlokið er, er athyglisvert fyrir margra hluta sakir, og gefur tilefni til mikilla skrifa og umræðna. Mikilvægasti lærdómurinn sem verkafólk dregur af því er þó sá, að enn einu sinni hefur komið í ljós, svo ekki verður um villst, að forysta ASÍ hefur gersamlega snúið baki við baráttu verkafólks, bæði faglegri og pólitískri.

En hins vegar bendir margt til þess að , framundan séu tímar þar sem ASÍ-forystan má vænta meiri mótbyrs frá verkafólki en hún hefur fengið hingað til. Til þessa bendir t.d. málflutningur margra fulltrúa á þinginu, svo og það hve svikular félagsforystur hafa verið sniðgengnar í baráttuaðgerðum ýmissa starfshópa undanfarna mánuði. Skrípaleikurinn í kring um kosninguna í miðstjórn ASÍ hefur líka sýnt verkafólki það, hvers eðlis forystusveit alþýðusamtakanna er í raun. Hún er ekki annað en samansafn fylgispakra flokkssauða, þar sem borgaralegu stjórnmálaflokkarnir skipta stjórnarsætunum sín á milli. Forystunni er þannig alls ekki ætlað það , að þjóna baráttu verkalýðs, heldur að útbreiða viðhorf atvinnurekenda í verkalýðshreyfingunni, sætta fólk við kjaraskerðingu og réttindamissi og sundra baráttueiningu í fæðingu, hvar sem hún kann að koma upp. Baráttusinnar í alþýðusamtökunum verða því í ljósi reynslunnar að minnast þess, að raunverulegur árangur í baráttunni næst ekki með því að keppa um toppstöður í ASÍ stéttasamvinnufurstanna sem þar eru, heldur með því að snúa algerlega baki við þeim og byggja upp baráttufylkingu neðan frá. Aðeins þannig er mögulegt að ná árangri. Hins vegar er svo staðreynd, að faglega baráttan ein og sér nær skammt. Úr því á víst að bæta með þeim glundroða og orðamoði sem svokölluð stefnuskrá ASÍ er, þar sem ægir saman alls kyns kratískum og stórborgaralegum hugmyndum. Það er heldur ekki Alþýðubandalagið eða Alþýðuflokkurinn sem eru hin einu réttu pólitísku vopn alþýðu. Báðir þessir flokkar taka fullan þátt í uppskiptingu ASÍ á milli þingflokkanna og hafa að leiðarljósi kjörorðið:"Kjarabætur verða taldar upp úr kjörkössum". M.ö.o. að lausn alls vanda sé sú, að skipta um ríkisstjórn. Nei, við þurfum flokk sem hefur á snærum sínum reyndustu og baráttufúsustu liðsmenn verkalýðsins og sem fylkir verkalýðsstéttinni undir merkjum einingar á grundvelli stéttabaráttu. Þessi flokkur er kommúnistaflokkur, en bygging hans er mjög brýn fyrir verkafólk. Aðeins sannur kommúnistaflokkur er fær um að leiða sigursæla baráttu verkafólks gegn atvinnurekendum og ríkisvaldi þess og sú barátta stefnir hærra og lengra en karp um krónuhækkanir á kaup frá degi til dags.

### Röntgentæknar:

# RÍKISVALDIÐ NEITAR UM SAMNINGSRÉTT

Í tveim síðustu Verkalýðsblöðum hefur verið fjallað um baráttu röntgentækna fyrir leiðréttingu á launum sínum.

Verkalýðsblaðið talaði við Arngrím Hermannsson um framvindu mála.

Vbl: Þið lögðuð niður störf 20 nóv. eins og fyrirhugað var. Hefur ríkisvaldið hafið samningaviðræður við ykkur?

AH: Nei, þvert á móti, við okkur sem unnum á Landsspítalanum hafa engin yfirvöld rætt. Við röntgentækna á Borgarspítalanum talaði Magnús Óskarsson vinnumálastjóri o.fl. aðilar frá borginni. Hótuðu þeir að kæmu röntgentæknar ekki til vinnu á mánudagsmorgunn, yrðu þeir lögsóttir fyrir að virða ekki framlengingarskipun borgaryfirvalda á uppsagnarfrestinum, en framlengingarskipunin kom eftir löglegan frest. Einnig hótuðu þeir að taka barnaheimilisplássin af einstæðu mæðrunum og neyðast þær því til að hverfa til vinnu aftur auk annarra röntgentækna á Borgarspítalanum

Vbl: Buðu borgaryfirvöld leiðréttingu launa?

AH: Nei, enga en vildu að tíminn síðan við lögðum niður störf yrði reiknaður sem tekið vetrarfrí. Borgin segist munu veita leiðréttingu ef ríkið geri það fyrst.

Vbl: Áttuð þið enga sjóði að grípa til handa þeim verst stöddu eða getur ekki BSRB veitt ykkur fjárstuðning:

AH: Við áttum bara 50.000 sem entist skammt. BSRB er í svo föstum skorðum að það vei veitir engan fjárstuðning þegar um uppsagnir er að ræða. Við frá Landsspítalanum stöndum vel að vígi og höfum öll f fengið okkur aðra vinnu. Og röntgentæknar hjá Akureyrarbæ hafa fengið leiðréttinguna sem farið far fram á.

Verkalýðsblaðið lýsir enn yfir fullum stuðningi við þessa baráttu röntgentækna. Ríkisvaldið reynir í lengstu lög eins og aðrir auðherrar að brjóta á bak aftur launabaráttu alþýðu.




# STÆRSTA NATO-HERÆFING FRÁ STRÍÐSLOKUM

Aðeins ári eftir að "friðarráðstefnunni" í Helsinki lauk, lét NATO til skarar skríða og hélt stærstu heræfingu sem bandalagið hefur haldið frá stríðslokum. "AUTUMN-FORGE"-heræfingin hófst þann 25. ágúst og tók til svæðisins frá Nordkap til miðjarðarhafs. "AUTUMN-FORGE" er samheiti yfir samæfingar þessar sem fólgnar voru í æfingu tugþúsunda hermanna, skriðdreka, herflugvéla og herskipa frá NATO-ríkjunum. Tilgangurinn var sá, að æfa aðgerðir þessara aðila til þess að mæta árásum Sovétríkjanna, eins og það var orðað. Sem sagt: undirbúningur fyrir yfirvofandi átök risaveldanna tveggja, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna. Undirbúningur 3. heimsstyrjaldar er því þegar hafinn.

## Risaveldin undirbúa stríð

Á undanförnum árum og einkum þó síðasta ári hafa heimsvaldasinnar talað ákafar og hærra um "frið" og "hernaðarlega og pólitíska slökun" milli austurs og vesturs. Engir hafa ákallað friðarguðinn hætta en þeir Brésneff og Ford og hefur sá fyrrnefni látið heldur hærra. En að baki friðarhjalinu leynist grimmilegasti vígbúnaður og drottnunarstefna sem nokkru sinni hefur ógnað alþýðu heimheimsins.

Á s.l. ári stunduðu Sovétríkin heræfingar sem NATO-hershöfðingjar stóðu gapandi andspænis. Sú heræfing, OCEAN-75, náði ekki aðeins til Atlandshafsins og Evrópulanda, heldur var hún háð á öllum heimshöfum samtímis. Á þessu ári hafa Sovétríkin síðan gert margar staðbundnar æfingar, þar af margar í Norður-Atlandshafi og Barentshafi. "AUTUMN-FORGE" er svar NATO við risaæfingum sovésku heimsvaldasinnanna.

### Ísland milli risaveldanna.

Vegna legu sinnar er Ísland afar mikilvægt í hernaðarlegu tilliti. Umhverfis landið sveima flotar beggja risaveldanna. Á hafinu umhverfis landið og norður og norðaustur af landinu eru flotar risaveldanna stöðugt að heræfingum. Hernaðarstefna sovésku heimsvaldasinnanna er að hernema Ísland, til að koma í veg fyrir stórfellda herflutninga Bandaríkjanna til Evrópu, um leið og Sovétríkin ráðast á og hertaka norðurhluta NATO-svæðisins til þess að eiga greiðan aðgang að meginlandinu. Bandarísku heimsvaldasinnarnir vilja halda Íslandi sem herstöð og auka umsvif sín þar til þess að tryggja skjótan flutning hermanna og hergagna til Evróðu. Hvorki íslenska alþýðan né íslenskir ráðamenn verða spurðir um leyfi af risaveldunum, frekar en endranær, af risaveldunum. En bæði risaveldin vita að þau eiga hvort sína fimmtu herdeild staðsetta í landinu. Íslenska afturhaldið með Sjálfstæðisflokkinn í fararbroddi lætur bandarísku heimsvaldasinnunum fúslega í té alla þá aðstoð sem það getur til að tryggja valdaaðstöðu Bandaríkjanna á Íslandi. Sovétvinirnir í Alþýðubandalaginu og Fylkingunni eru fúsir til að taka upp hanskann fyrir innrásarlið sovésku heimsvaldasinnanna og hjálpa þeim til valda á Íslandi. Sovétvinirnir íslensku hafa fordæmi frá samherjum sínum t.d. í Tékkóslóvakíu og Angólu.

Erlendur her, hvort sem hann er bandarískur eða sovéskur, á hafinu umhverfis Ísland eða á Íslandi er ógnun við frelsi íslensku alþýðunnar og hún mun berjast jafn óvægt gegn öllum ógnunum við frelsi og sjálfstæði lands síns eins og alþýða Víetnam og Kampuchea barðist gegn bandarísku heimsvaldastefnunni. Íslenska alþýðan má aldrei láta glepjast af kenningum um að hægt sé að lifa í friði og sátt við árásaðgjörn heimsvaldaríki og eiga við þau friðsamleg samskipti á jafnréttisgrundvelli. Alþýðan í Tékkóslavakíu er nú troðin undir járnhæl sovésku heimsvaldasinnanna af því hún krafðist frelsis. Alþýðan í Chile er nú troðin undir járnhæl fasistanna sem bandaríska heimsvaldastefnan setti til valda af því hún krafðist frelsis síns. Baráttan gegn þessum tveim risaveldum og hernaðarblokkum þeirra er því barátta fyrir frelsi og friði. Varanlegur friður næst ekki nama alþýðan frelsi sig undan oki heimsvaldastefnu, sovéskrar og bandarískrar.

Sovésku heræfingarnar og heræfingar NATO nú eru greinileg merki um að risaveldin hyggja á nýja heimstyrjöld. Það er aðeins eitt afl sem ge getur komið í veg fyrir styrjöldina: ALÞÝÐAN UNDIR FORYSTU VERKALÝÐSSTÉTTARINNAR OG FLOKKS HANNAR. BYGGJUM KOMMÚNÍSKAN VERKALÝÐSFLOKK Á ÍSLANDI! SMÍÐUM ÞAÐ VOPN SEM BÍTUR Á ALLA ANDSTÆÐINGA!

---

## Herstöðvamálið:

# Gamalt vín á nýjum belgjum

SAMTÖK HERSTÖÐVAANDSTÆÐINGA VORU ENN EINU SINNI ENDURVAKIN Í OKTÓBER S.L. Á TVEGGJA DAGA RÁÐSTEFNU TÓKU HERSTÖÐVAANDSTÆÐINGAR AFSTÖÐU TIL TILLAGNA AÐ STEFNU OG STARFSHÁTTUM OG KUSU NÝJA STJÓRN (MIÐNEFND) Í STAÐ ÞEIRRAR SEM VALIN VAR Á STAPA-RÁÐSTEFNUNNI HAUSTIÐ 1975. SPURNINGIN ER: - ERU NÝJU SAMTÖKIN FRÁBRUGÐIN ÞEIM GÖMLU? HVERT STEFNIR?

Samtökum herstöðvaandstæðinga hefur óumdeilanlega tekist illa að skipuleggja og virkja víðtæka andstöðu gegn erlendu herstöðvunum og NATO-aðild Íslands. Ræður þar röng forysta mestu - forysta sem treystir á þingsalabaráttu, upphlaup og vinsemd við sovéska hernaðarveldið. Sjónarmið fjöldabaráttunnar, þolinmótt uppbyggingarstarf og andstaða gegn öllum árásarríkjum situr ekki í fyrirrúmi.

Þegar "vinstri"-stjórninni tókst að mýla herstöðvabaráttuna með aðstoð Alþýðubandalagsins og Samtaka herstöðvaandstæðinga datt botninn úr hreyfingunni. Stjórnarandstöðuflokkarnir endurvöktu loks baráttu þegar líða tók að seinni hluta kjörtímabils núverandi ríkisstjórnar. Þeir líta á "öflugt" starf herstöðvaandstæðinga sem lið í kosningabaráttunni - því það þarf nýja "vinstri"-stjórn til að koma hernum úr landi - segja þeir. Þessir flokkar, undir forystu Alþýðubandalangsins og með dyggri aðstoð Fylkingarinnar, höfðu yfirhöndina í undirbúningi stofnráðstefnu nýju samtakanna og á ráðstefnunni sjálfri. A þessum sökum kom fátt eitt nýtt fram í stefnuskránni eða baráttuaðferðum Samtakanna. "Reisnin" sem lofað var að fylgdi nýjum samtökum, nýrri sókn, lætur því á sér standa.

### Hvað vantar?

Aðallega verður að berjast fyrir tvenns konar endurbótum á herstöðvahreyfingunni.

1. Samtökin verða að berjast gegn báðum risaveldunum - Bandaríkjunum/NATO og Sovétríkjunum/Varsjárbandalaginu. Ástæðan er fyrst og fremst sú, að Sovétríkin eru ekki vinveitt alþýðuríki lengur, heldur heimsvaldasinnað afturhalds- og arðránsríki. Herstöðvaandstæðingar eiga aðeins eitt svar við auknum vígbúnaði og viðsjám risaveldanna og svo áróðri Morgunblaðsins um "árásarstefnu Sovétkommúnismans", en það er stefnuskrárbundin barátta gegn allri erlendri ásælni og báðum hernaðarbandalögum risaveldanna.

2. Allt starf stjórnar og liðsmanna verður að reisa á fjöldastarfi og skipulagningu fjöldaaðgerða - stanslaust. Leggja verður áherslu á að byggja upp samtökin meðal fólks; en þess sjást nú lítil merki.

Þessar breytingar munu ekki nást fram nema gegn vilja Alþýðubandalagsforystunnar og trotskyista. Marx-lenínistar munu standa fyrir þeirri baráttu hér eftir sem hingað til. En víst er að baráttan fyrir úrsögn úr NATO og brottvísun hersins verður ekki árangursrík fyrr en alþýðufólk, sem einmitt vill fyrrnefndar breytingar, hefur knúið þær fram.

### Gerræði

Á ráðstefnunni í Sigtúni var hart deilt og reynt að kæfa raddir hinnar réttu stefnu. Vinsælasta hégiljan var þessi: "Við megum ekki deila innbyrðis - látum okkur sameinast um það sem allir geta fallist á". Minna var hins vegar rætt um það, hvort þetta "það" væri rétt og árangurstrygg stefna. Þegar svo Fylkingin og KFÍ/ML höfðu bæði fallið frá öllum breytinatillögum við stefnugrundvöllinn og EIK(m-l) stóðu ein eftir með sínar, stóð upp hugprúður og sjálfsöruggur riddari meirihlutans, Jón Hannesson Alþýðubandalags-maður og lagði til að öllum breytingartillögum yrði vísað frá! Var það samþykkt og komið í veg fyrir frekari umræður og atkvæðagreiðslu. Kvartaði þá Fylkingin síst yfir skorti á lýðræði eins og ávallt áður.

### Starfið.

EIK(m-l) hafa lagt lítið starf af mörkum með nýju samtökunum og er það slæmt en óhjákvæmilegt vegna margra verkefna. Samtökin segja hins vegar það rétt að allir herstöðvaandstæðingar starfi af alúð með samtökunum þótt stefnan sé ekki árangurstrygg. EIK(m-l) skora á liðsmenn sína, stuðningsmenn og alla framsækna aðila að efla baráttuna gegn herstöðvum, NATO og risaveldunum.

---

## Mjólkurbúðamálið: Kröfur samtaka gegn lokun mjólkurbúða:

# 25 búðir verði opnar áfram!

Fyrir nokkru var öllum þingmönnum í Reykjavíkur og Reykjaneskjördæmi sent bréf. Þar eru þeir beðnir að beita sér fyrir því að lögunum frá því í vor, sem afnámu einkasmásöluleyfi Mjólkursamsölunnar verði breytt og 25 búðir reknar áfram í 5 ár. Rökstuðningur mjólkurbúðakvenna við bóninni er að þetta mundi draga úr vandkvæðum elstu kvennanna sem í mestum erfiðleikum lenda við að fá aðra vinnu. Ákvörðun um að lækka kröfurnar, en þær voru í upphafi enga lokun mjólkurbúða - var tekin eftir að samsalan hafði hunsað kröfur undirskriftasöfnunarinnar, kröfugöngunnar og reynt hafði verið að tala við stjórn Samsölunnar á mörgum fundum.

Eftir að bréfin voru send var haft samband við Svövu Jakobsdóttur þingmann Alþýðubandalagsins og hún beðin að fylgja kröfum bréfsins og

að fylgja kröfum bréfsins eftir á þinginu. Hún fékk til fylgis við sig hina stjórnarandstöðuflokkana og hafa þau nú í sameiningu borið fram frumvarp sem felur í sér að

10 mjólkurbúðir yrðu reknar áfram í allt að 5 ár ef sv margar stúlkur kjósa að starfa áfram.

Hvað sýna þessar undirtektir þingmanna verkafólki?

1. Að verkafólk getur ekki vænst þess að þingmenn né nokkur núlifandi stjórnmálaflokkur taki upp þeirra hagsmunamál án þess að verkafólk hafi áður staðið í fjöldabaráttu eins og undirskriftasöfnunin og kröfugangan og öll blaðaskrifin eru í þessu tilfelli.

2. Engin stjórnmálaflokkur tekur upp kröfur verkafólks óbreyttar, heldur reyna þeir að venja verkafólk á að þakka og blessa hvaða smánarundirtektir sem heyrast í þingsölum. Þegar í Bónarbréfinu er farið fram á 25 búðir. Þeir bera fram 10 af einskærri hræðslu um að verða af atkvæðum. Slík er þingsala"baráttan".

3. Svava talaði um það í rökstuðningsræðu við frumvarpið að milil hóværð fælist í frumvarpinu. Þessi ummæli hennar sýna vel hve hennar flokkur sem kennir sig við verkalýðinn er bljúgur og undirgefinn gagnvart atvinnurekendum og ríkisvaldi. Alþýðuflokkurinn og Frjálslyndir vinstrimenn taka undir þetta sýndarfrumvarp til að halda andlitinu gagnvart verkalýð.

4. Hvers vegna studdu þá ekki Framsókn og Sjálfstæðisflokkurinn líka þetta sýndarfrumvarp?

Mjólkursamsalan er Framsóknarfyrirtæki og Sjálfstæðisflokkurinn er ráðandi afl í Kaupmannasamtökunum. Kaupmenn njóta stuðnings og eru í Sjálfstæðisflokknum. Athyglisvert var að heyra það koma fram í þingsumræðum um 10 búða frumvarpið að áður en frumvarpið, sem fól í sér afnám einkasmásöluleyfis Samlölunnar, var tekið upp og afgreitt í vor, sömdu Mjólkursamsalan og Kaupmannasamtökin um innihald frumvarpsins. Þetta sýnir verkafólki að Alþingi, þingmenn og samþykktir þess þjóna einokunarauðvaldinu þ.e. auðhringjum t.d. SÍS, Flugleiðum, Eimskip, Samsölunni, stórfyrirtækjum og stóratvinnurekendum.

Hvers vegna hafa kröfur mjólkurbúðakvenna og 17500 neytenda ekki heyrst í þingsölum þrátt fyrir nær hálfs á árs baráttu?

Vegna þess að Alþingi og þingmenn þjóna ekki verkalýðsstéttinni og verkafólk á þar engan raunverulegan málsvara. Flokkarnir sem kalla sig til vinstri vinna eftir stefnuskrám sem eru gegnsýrðar af undirgefni við atvinnurekendur og allt auðvald.

Verði 10 búðum haldið áfram opnum er það auðvitað mikill sigur ekki síst í ljósi þess hvílík hvattning það er verkafólki að sjá árangur af þrotlausri baráttu sinni. Ávinningarnir í Selfossdeilunni (einn maður rekinn - endurráðinn) Akranesverkfallinu og nú Mjólkurbúðamálinu sýna að það þýðir að berjast en ekki gefast upp.




# ÓLGA Í LÁGLAUNAFÓLKI

Starfsstúlknafélagið Sókn gekkst fyrir láglaunaráðstefnu í Hreyfilshúsinu 14.11. s.l. og bauð m.a. Verkamannasambandinu þátttöku en það neitaði, hefur sjálfsagt búist við harðri gagnrýni, sem og varð raunin.

Einkenni ráðstefnunnar var hörð gagnrýni á duglausa "forystu" verkalýðshreyfingarinnar og um leið krafa um harðari baráttu fyrir bættum kjörum.

Ráðstefnan samþykkti ályktanir gegn fyrirhuguðum breytingum á vinnulöggjöfinni, lýsti yfir stuðningi við baráttu sjómanna og starfsstúlkna í mjólkurbúðum.

Niðurstöður voru litlar af ráðstefnunni og eftir sem áður á baráttufólk úr verkalýðsstétt að móta sér kröfur og baráttuleiðir í kjarabaráttunni.

Næsta skref.

EIK(m-l) telur brýnt að verkafólk taki upp þá kröfu, að núgildandi kjarasamningum verði sagt upp sem allra fyrst. Frá seinustu kjarasamningum hefur kaupránið verið látlaust. Kaupið stendur í stað að heita má, en verðlag allt stórhækkar. "Rauðu strikin" svo nefndu duga ekkert. Ríkisvaldið getur að mestu leyti komið í veg fyrir að vísitalan nái þeim með t.a.m. auknum niðurgreiðslum.

Verkafólk verður að taka þessa kröfu upp nú, ef sama kauprán á ekki að halda áfram til vors. EIK(m-l) telur eftirfarandi atriði mikilvægust fyrir þessa baráttu.

a) Að einstök félög og félagasambönd taki ekki þátt í ASÍ-samflotinu, enda eiga ASÍ forkólfarnir enga samleið með með verkafólki bæði vegna launa og valda. Reynslan hefur líka sýnt, að frá því stóru samflotin voru tekin upp 1964 hefur baráttunni farið síhrakandi.

b) Að lágmarkslaun verði ekki lægri en 100.000 kr. sem er það lægsta sem hægt er að krefjast, því framfærslukostnaður vísitölufjölskyldunnar er yfir 150.000 kr.

c) Að greiddar verði fullar vísitölubætur á laun og þær greiddar sem jöfn krónutala ofan á öll laun en ekki í prósentum. Samningar án fullra vísitölubóta eru lítils virði.

Svik vinstri stjórnarinnar.

Á ráðstefnunni komu fram ýmsar ranghugmyndir um að "ef það kæmi vinstri stjórn, þá lagaðist ástandið". En reynslan sýnir, að það skiptir ekki máli hvaða ríkisstjórn situr við völd hverju sinni. Vinstri stjórnin t.a.m. afnam vísitölubindingu á laun í júní 1974 og ekki rak hún herinn úr landi þrátt fyrir öll loforðin.

Það eru þeir sem ráða yfir auðmagninu, sem hafa öll afgerandi völd í landinu, án tillits til þess hvaða stjórn situr.

Falssósíalistar eins og Alþýðubandalagsforystan halda öðru fram. Þeir segja t.d. að það hafi ekki sama stétt ráðið þjóðfélaginu í tíð vinstri stjórnarinnar og núverandi hægri stjórnar. Þvílík fásinna.

Ein helsta orsökin fyrir því, hversu illa er komið í baráttu verkafólks, er að forystuaflið er ekki verkalýðsflokkur, eins og það reynir að telja fólki trú um.

Helsta skilyrðið fyrir því, að alþýðubaráttan geti farið að rísa á ný, er að það verði byggður upp raunverulegur verkalýðsflokkur.

# RANNSÓKNIN BLEKKING!

Framh. af forsíðu

bæjarstjóri beita sér fyrir því að álverið verði reist í Eyjafirði. Fara þeir samt hægt í sakirnar ennþá vegna mikillar andstöðu alþýðunnar og margra smærri atvinnurekenda. Segja þeir m.a. að þeir séu persónulega ekkert meira fylgjandi álveri en allir aðrir, en telja svo upp "kosti" álvers og hræða fólk óspart með atvinnuleysi, hruni og afturför ef ekki komi stóriðja til bjargar. Ef Akureyringar hafna álveri nú þá þýðir sko ekkert að tala um "byggðastefnu" næstu 20 árin eða svo. (Helgi Bergs á Kívanisfundi á Akureyri fyrir stuttu og Valur Arnþórsson á á fundi í Menntaskólanum á Akureyri.) Að auki segja þeir að verið sé að rannsaka félagslegar og náttúrufræðilegar afleiðingar fyrirhugaðs álvers og verði beðið eftir niðurstöðum þeirra rannsókna áður en farið verði að reisa álverið.

Rannsóknirnar blekking.

Nú liggur fyrir áætlun um rannsóknir hjá Rannsóknarstofnun landbúnaðarins (RALA) sem í engu víkur frá drögum sem Norsk Hydro lagði fram um rannsóknir hér. Rannsaka skal ástand og flúorinnihald gróðurs og jarðvegi áður en fyrirhugað álver skal rísa. Sú rannsókn skal á einhvern óskiljanlegan hátt ákvarða hvort mengun frá álveri geti haft alvarleg áhrif á lífríki Eyjafjarðar. Auðvitað verða niðurstöður rannsóknanna jákvæðar því ekki er mengun af völdum flúors og annarra efna komin á hættulegt stig ennþá á þeim slóðum. Þessar rannsóknir eru því blekking til þess eins að friða almenning. Að lokum má geta þess að kostnaðurinn við þessa blekkingu er áætlaður ca. 5-10 milljónir króna.

Akureyri eða Straumsvík.

Það hefur komið í ljós að staðsetning álversins (þ.e. við Eyjafjörð) er ekkert kappsmál fyrir Norsk Hydro eða Jóhannes Nordal. Öruggar heimildir eru til fyrir því að til sé áætlun um byggingu þessa sama álvers við Straumsvík. Þannig að ef Akureyringar verða eitthvað vanþakklátir og erfiðir viðureignar þá verður álverksmiðjan einfaldlega færð til Straumsvíkur. Kæmi það sér jafnvel betur t.d. fyrir Norsk Hydro.

Mikil andstaða.

Á Norðurlandi er andstaðan gegn álverinu mikil. Alþýðan kærir sig um flest frekar en álver til að tryggja atvinnuöryggi sitt og margir smærri atvinnurekendur eiga hag sinn undir því að álver verði ekki reist í Eyjafirði. Myndi álverið draga vinnuafl og fjármagn frá smáiðnaði og gera honum erfitt fyrir. Ennþá er baráttan gegn álveri við Eyjafjörð ekki hafin en þegar eru starfandi starfshópar um málið og í undirbúningi er skipuleg barátta á breiðum grundvelli - stofnun baráttusamtaka gegn álverinu. Fljótlega má vænta þess að meira heyrist um það.

# NÝR RAUÐLIÐI



2. tbl Rauðliðans 1976 er nýkomið út. Rauðliðinn er tímarit EIK(m-l) um menningarmál og fræðikenningu kommúnismans - marx-lenínismann/kenningar Maos Tsetungs.

Nokkur dráttur hefur orðið á útkomu heftis þessa, bæði vegna anna starfsmanna, sumarleyfa og nú síðast pappírsskorts í landinu. Við biðjum lesendur velvirðingar á því.

2. tbl. hefur að geyma afar mikilvægar greinar sem eru þarft innlegg í baráttu dagsins. M.a. er að finna þarna ítarlega úttekt og gagnrýni á stefnuskrá svonefnds "Kommúnistaflokks Íslands" og ranga afstöðu hans til stétta á Íslandi. Í greininni kemur fram mat á flokknum og afstaða til sameiningar byltingaraflanna á Íslandi. Þá er að finna grein um sjálfsgagnrýni eftir J. Stalín, gagnrýni á bók Arnar Ólafssonar kennara: "Kreddutrú eða kommúnismi" og fleira.

Þá eru ónefnd bréfaskipti EIK (m-l) og KSML vegna flokksstofnunarinnar á páskum s.l., en þau eru öll birt í Rauðliðanum. Þau afhjúpa greinilega hentistefnu KSML-forystunnar varðandi stofnun flokks þessa og ranga afstöðu til skemmdarverkastarfsemi sinnar á fyrri árum. Um leið sýna bréfin hvernig EIK(m-l) mótuðu afstöðu sína og héldu fast við grundvallaratriði kommúnískra starfshátta og marx-lenínismann.

Rauðliðinn kostar kr. 250 í lausasölu og einnig má fá hann í fastri áskrift. Hann er til sölu í bókabúð Október-forlagsins Laugavegi 178.

# BÆKLINGUR UM SKÓLAMÁL

Október-forlagið sf hefur nú sent frá sér bækling um undirstöðuatriði baráttu skólanema og stöðu þeirra. Ber hann heitið Frumdrög að skóla og æskulýðsmálastefnu og er 14 blaðsíður að stærð. Verðið er eins lágt og mögulegt er, eða kr. 50.

EIK(m-l) hafa mótað grundvallarstefnu sína með gerð þessa bæklings og eru einu samtökin í stéttabaráttunni sem setja fram marx-lenínska stefnu í skólamálum. Bæklingurinn er því mikilvægur í starfi til uppbyggingar hagsmunasamfylkinga skólanema og svo kommúnískra æskulýðssamtaka.

Kaupið bæklinginn í skólum eða í Október-búðinni Laugavegi 178 2. hæð (miðvikud. 4-7 og föstud. 5-7).

# Skeyti til Hua Kuo Feng

Eftirfarandi skeyti sendi miðstjórn EIK(m-l) til Kommúnistaflokks Kína:

"Í tilefni af tilnefningu félaga Hua Kuo-fengs sem formanns miðstjórnar Kommúnistaflokks Kína, senda Einingarsamtök kommúnista (marx-lenínista) byltingarkveðjur íslenskra kommúnista til miðstjórnar Kommúnistaflokks Kína, til alls flokksins og alþýðu Alþýðulýðveldisins Kína.

Við erum sannfærð um, að hinn réttsýni og sigursæli Kommúnistaflokkur Kína og hinn óbugandi alþýðufjöldi Alþýðulýðveldisins mun feta ótrauður þann veg sem varðaður er af Marx, Engels, Lenín, Stalín og hinum mikla leiðtoga Mao Tse-tung. Við munum hylla heils hugar hvern sigur sem unninn er í baráttunni gegn heimsvaldastefnu, risaveldum, endurskoðunarstefnu og afturhaldi.

Lengi lifi Kommúnistaflokkur Kína og leiðtogar hans - lengi lifi marx-lenínisminn/kenningar Mao Tse-tungs!

Lengi lifi alþjóðahyggja öreiganna og vinátta þjóða okkar!"

# Opið bréf til KFÍm l

Til Kommúnistaflokks Íslands(m-l) - miðstjórn og félagar,

EIK(m-l) sendu frá sér skjal í september sl. er ber yfirskriftina: SAMEINING ÍSLENSKRA MARX-LENÍNISTA OG VERKALÝÐSSTÉTTARINNAR. Í formála þess segir að EIK(m-l) séu tilbúin til þess að sameinast samtökum og eða einstaklingum á grundvelli þess eins.

EIK(m-l) líta á skjalið sem grundvallarstefnuskrá marx-lenínismans/kenninga Mao Tsetungs við íslenskar aðstæður og uppgjör við henti- og endurskoðunarstefnu íslenskra og erlendra stjórnmála.

Einu viðbrögð KFÍml til þessa eru stuttorðar yfirlýsingar II. landsfundar miðstjórnar KFÍml þar sem varað er við vinnubrögðum okkar og sagt að í sameiningargrundvelli okkar sé lögð áhersla á þau atriði sem sameina ekki heldur sundra.
lýsingar KFÍml um nauðsyn einingar og leggja eftirfarandi spurningar fyrir miðstjórn og félaga KFÍml:

1. Hvaða atriði eru það sem "sundra en sameina ekki" í grundvelli EIK(m-l) og hvernig er vikið frá marx-lenínismanum í honum?
2. Sameinast marx-lenínistar um grundvallaratriði marx-lenínismans og uppgjör við henti - og endurskoðunarstefnu? Ef svo er, hvers vegna hefur KFÍml ekki tekið nánari afstöðu til sameiningargrundvallarins?
3. Hver er afstaða KFÍml til skjalsins og þar með sameiningar marx-lenínista?
4. Varðandi forsögu KFÍml: Úr því KSML hafði ranga stefnu í flestum eða öllum baráttumálum (bréf KSML til EIK(m-l) 19.12 1975) og sömu stefnu í grundvallaratriðum og sænsk, dönsk og norsk gagnbyltingarsamtök - hvernig gátu KSML þá haft rétta grundvallarafstöðu til marx-lenínismans og verið marx-lenínísk samtök frá upphafi (fullyrðing KFÍml)?

F.h. framkvæmdanefndar miðstjórnar Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)
Ari Trausti Guðmundsson, formaður.

# Styðjið PAC!



Tveir fulltrúar PAC, frelsissamtaka Asaníu (Suður-afríku) voru staddir hérlendis í boði EIK(m-l) og héldu kynningarfund á vegum Asaníunefndar, en að honum stóðu auk EIK(m-l), KFÍml og Rauð æska.

Fund þennan sóttu rúmlega 50 manns og söfnuðust yfir 15 þúsund krónur til baráttunnar í Asaníu. Mikil baráttuandi ríkti á fundinum. Þar söng kór Alþýðumenningar, ávörp voru flutt og Arnþór og Gísli Helgasynir fluttu tónlist frá kínverska alþýðulýðveldinu.

Megininntakið í ræðum félaganna tveggja frá PAC var í stuttu máli það, að PAC skipuleggur frelsisstríð alþýðunnar og skal hið pólitíska vald tekið frá kúgurunum, alger bylting framkvæmd í sveitunum sem og í borgum og stefnt að sósíalísku lýðveldi undir stéttarveldi verkalýðs og fátækra bænda. PAC standa föstum fótum í Asaníu og berjast staðfastlega gegn heimsvaldastefnu, hvort sem hún birtist í ásælni Bandaríkjanna, Sovétríkjanna eða Bretlands. PAC voru bönnuð í Asaníu 1960 og starfa því ólöglega í landinu.

Félagarnir ræddu einnig um skyldur íslenskra kommúnista, svo sem nauðsyn þess að safna fé til langtímabaráttunnar og það að berjast gegn viðskiptatengslum Íslands og Suður-Afríku.

Asaníunefndin minnir hér á söfnun sína og gíronúmer sem er 72-200.

Munið að hver krónan er dýrmæt því baráttufólki og alþýðu sem teflir lífi sínu fyrir frelsi og réttlæti.

Meðal efnis sem bíður útkomu næsta blaðs eru framhaldsgreinarnar um Sovétríkin og baráttuna í Þýskalandi, um launakjör og vinnuþrælkun á sveitaheimilum á Íslandi og fleira.

Gerum gott blað betra á komandi ári!

Ritstjórn

# EIK(m-l)

Námsstarf EIK(m-l) í marx-lenínismanum er undirstaða baráttunnar!

LÁTIÐ SKRÁ YKKUR!

Skrifstofa og bókabúð EIK(m-l) er að Laugavegi 178, 2. hæð. Sími 84210.

Opnunartímar skrifstofu og bókabúðar EIK(m-l) að Laugavegi 178 hafa breyst.
Þeir eru sem hér segir:
Miðvikudagar kl. 4-7
Föstudagar kl. 5-7

# 40 ÁR Í ÞJÓNUSTU HVERRA?




MÁLGAGN SÓSÍALISMA, VERKALÝÐSHREYFINGAR OG ÞJÓÐFRELSIS.



…viljinn varð nýverið …r og þykir sumum það … vel af sér vikið. Margir urðu til þess að bera lof á blaðið á afmælisdaginn og í blaðinu voru margar greinar um fyrri tíma og vildarumsagnir fólks. En nú er þörf að greina hismið frá kjarnanum og svara spurningunni: Hvaða hlutverki hefur Þjóðviljinn þjónað í höfuðatriðum öll þessi ár?

Sagan

Verklýðsblaðið hét málgagn Kommúnistaflokksins gamla. Þar mátti oft lesa um beina fjöldabaráttu, byltingaráróður og afhjúpun á kratastefnu og stéttasamvinnu. Eða hvernig skyldi KFÍ með sitt 8% atkvæðafylgi hafa getað leitt jafn víðtæka baráttufylkingu og raun ber vitni, án byltingarsinnaðs, kommúnísks verkalýðsblaðs?

Þegar endurskoðunarsinnar og kratar innan flokksins náðu þar yfirtökum, hófst baráttan fyrir samruna hluta Alþýðuflokks og Kommúnistaflokksins. Verkl… blaðið varð eitt fyrs… fórnarlamb umbótastefnun… . Blaðið var að fullu aflagt 1936. Þjóðviljinn tók við og varð eitt aðal verkfæri sameiningarmanna, en byltingarst…munni var kastað fyrir róða. Mei… að segja stjórnarþátttaka Sósíalistaflokksins í ríkisstjórn með Sjálfstæðisflokknum varð jafn auðveldlega að óskabarni Þjóðviljans og níð Krúsjeffs um heimshreyfingu kommúnista og Jósef Stalín á árunum 1956-1963.

Jákvæðar hliðar

Þó svo að höfuðhliðin á útgáfu Þjóðviljans hafi verið stéttasamvinnan og fráhvarf frá marxisma og lenínisma ("stalínisma" - í munni framámanna Alþýðubandalags) má benda á jákvæð atriði í ferli Þjóðviljans.

Í verkföllum ljáði Þjóðviljinn oft dálkarými fyrir raddir og kröfur verkafólks og margur alþýðusinninn hefur skrifað grein og grein fyrir blaðið. En þetta vegur hvergi upp á móti hinu, þó svo ritstjórinn og AB-forystan reyni að gera slíkt að aðalatriði með öllum lúðrablæstrinum í kring um afmælið.

40 ár í þjónustu borgaralegrar skemmdarverkastarfsemi

Nú er Þjóðviljinn vígi stéttasamvinnu verkalýðsforystunnar, árásarstefnu á sósíalísku ríkin, svo sem Kína og Albaníu, og þingsalabrölts. Hann ver Sovétríkin í raun og reynir að afvegaleiða fjöldabaráttuna, þegja hana í hel - sbr. allar óbirtar tilkynningar Landhelgissamtakanna, EIK(m-l), Dagvistarsamtakanna og fleiri baráttuhreyfinga, eða þá að baráttan er rangtúlkuð á alla lund, svo sem fréttaflutningurinn af kröfugöngu mjólkurbúðakvenna er hvað skýrast dæmi um.

Alþýðubandalagið reynir eins og mögulegt er að komast hjá því að vekja einhverja baráttu sem er auðvaldi og afturhaldi raunverulega til tjóns - nema ef ske kynni að það aflaði flokknum atkvæða í kosningabrölti. Þjóðviljinn er nú styrktur af auðmönnum og afturhaldsmönnum og má nefna sem dæmi, að Albert Guðmundsson heildsali hefur gefið fúlgur í byggingarsjóð Þjóðviljahússins og Rolf Johansen hefur oftar en einu sinni rétt blaðinu aura.

Verkalýðsblaðið nýja

Margur baráttumaðurinn lætur enn glepjast af orðavaðli Þjóðviljans, "herútboðum" hans og loforðum og biðlunum til verkafólks. Margir hafa orðið til þess að gefa fé í nýbyggingu blaðsins - höllina við Síðumúlann. En nú er Verkalýðsblaðið risið á ný og þar með eru mörkuð endalok þess tíma þegar falsmarxismi lék einn lausum hala í alþýðuhreyfingu landsins.

Þráðurinn hefur verið tekinn upp þar sem hann féll niður og Verkalýðsblaðið sést nú raunverulega á ný sem kommúnískt blað - málgagn EIK(m-l) og hinnar byltingarsinnuðu alþýðuhreyfingar.

Brátt mun einnig nýr verkalýðsflokkur - marx-lenínískur kommúnistaflokkur verða byggður og hann mun ekki aðeins beina sínum spjótum að rótum auðvalds og heimsvaldastefnu, heldur einnig að endurskoðunarstefnunni og hentistefnunni.

Verkalýðsblaðið er mikilvægt tæki í þeirri baráttu og verður smám saman skipuleggjari og áróðursvettvangur sem nær um allt land, vopn í daglegri baráttu og kommúnískur skipuleggjari. Höldum upp á 40 ára afmæli Þjóðviljans með því að efla Verkalýðsblaðið nýja og standa vörð um arfinn frá tímum Kommúnistaflokks Íslands!

LIFI VERKALÝÐSBLAÐIÐ - EINA KOMMÚNÍSKA BLAÐ LANDSINS!

GERUM VERKALÝÐSBLAÐIÐ AÐ ½-MÁNAÐARBLAÐI 1977!

## Þegar Mikki Mús markaði stefnuna!


Mjallhvít og Mikki mús

Haustið 1938 urðu tímamót í sögu Þjóðviljans. Þá fór fram sameiningin og Sósíalistaflokkurinn var stofnaður. Í tilefni af því stækkaði Þjóðviljinn og breytti talsvert um svip. Þá fórum við t.d. að birta teiknisögur eftir Walt Disney, Mjallhvít, Mikka mús o.fl. Farið var að prenta blaðið í

Þegar endurskoðunarsinnarnir höfðu komið Kommúnistaflokknum í gröfina, þótti viðeigandi að flagga nýjum menningarsvip í anda hins "nýja sósíalisma". Einar Olgeirsson lýsir þessu í viðtali í Þjóðviljanum, á meðan á afmælisfylleríi blaðsins stóð. Þessi "menningarviðauki" voru hetjur á borð við Mikka mús!

Félagar, fyrirrennari Þjóðviljans var Verklýðsblaðið, en með það að vopni byggði Komúnistaflokkurinn upp þá hreyfingu sem Alþýðubandalagið lifir enn á. Tökum þennan arf af AB, byggjum raunverulegan og sterkan kommúnistaflokk og gerum Verkalýðsblaðið að öflugu vopni!



## Oft er þörf..

Framh. af baksíðu

Í bænum eru 1031 barn á dagvistunaraldri. Ef við gerum ráð fyrir að 60% mæðra vinni úti eins og tölur eru til um þá er þörf fyrir samtals um 600 pláss í bænum. Af þeim er nú fullnægt þörfinni fyrir 240 börn. Ástandið er þannig geigvænlegt.

Áhugaleysi bæjaryfirvalda.

Bæjaryfirvöld á Akureyri byrjuðu fyrst rekstur dagheimila 1971, þegar Pálmholt var keypt af kvenfélaginu Hlíf. Leikskólinn Árholt var stofnaður 1974 í gamla barnaskólanum í Glerárþorpi. Iðavöllur var gefinn bænum 1975 og neyddist bærinn að taka við rekstri hans. Þannig er sýnt að bæjaryfirvöld hafa mjög takmarkaðan áhuga fyrir málinu og ekkert mun gerast frekar í því fyrr en verulegur þrýstingur kemur frá bæjarbúum sjálfum á málið. Ekki bætir úr skák að fyrir ári síðan hætti ríkið að greiða helming af kostnaði við rekstur dagheimila svo ekki er eingöngu við bæjaryfirvöld að sakast.

## MÁLSSÓKN...

Framh. af baksíðu

viljunarkenndri atvikaröð, heldur er hér um að ræða hreinar stjórnunaraðgerðir í þágu ríkisvaldsins. Verkafólk á Bíldudal verður að gera sér þessa staðreynd fullljósa og haga baráttu sinni samkvæmt henni. Verkafólk um land allt verður jafnframt að kynna sér málefni Bílddælinga, styðja þá og læra af baráttu þeirra. Þetta á ekki eftir að verða einsdæmi, enda eru þegar margir "Bíldudalirnir" á Íslandi. Staðreyndin er hins vegar sú að þeim á enn eftir að fjölga.

## Svik ASÍ ...

Framh. af forsíðu

"toppmannanna" - andstaðan lýtur að mestu forystu Alþýðubandalagsins sem jafnframt er pólitískur bakhjarl stéttasamvinnunnar!

Skemmdaverkastarfsemi AB-forystunnar kom einkar glöggt í ljós á þessu þingi. Í stað þess að andstaðan beindist gegn rétta óvininum - þ.e. hinni uppkeyptu forystu og stéttasamvinnupáfum, tókst að mestu að beina óánægjunni í þann farveg sem stéttasamvinnumönnunum finnst allra bestur: gegn íhaldinu - fulltrúum Sjálfsstæðisflokksins innan verkalýðshreyfingarinnar. Þar gekk forysta Alþýðubandalagsins undan með fordæmi og sundraði félögum eftir flokkslínum. Hlálegt var að heyra ræður, þar sem lýst var ágæti Snorra Jónssonar og Guðmundar J. umfram Guðmund Garðarsson á þeim forsendum einum að sá síðasttaldi er í Sjálfstæðisflokknum. Enn hlálegra er að heyra kröfur frá þeim, sem þykjast vera fulltrúar verkafólks, um nýja "vinsti-stjórn" sem ætlað er að leysa öll vandræði verkafólks.

En þótt AB-forystunni tækist að blekkja andstöðuna í þetta sinn, þá er það aðeins gálgafrestur þeirra háu herra. Slagorð þeirra um "pólitíska verkalýðshreyfingu" afsakar ekki tilraun þeirra til að breyta samtökum alþýðunnar í flokkspólitíska kosningamaskínu. Margir forystumenn andstöðunnar eru framsækið fólk, og munu vissulega átta sig á þeim hráskinnaleik sem stéttasamvinnupáfar úr röðum allra flokka leika með þá.

## Dagvistar...

Framh. af forsíðu

III. Engar hækkanir á dagvistargjöldum - fast hámarksgjald.

IV. Færri börn á hvern starfsmann - aukin vellíðan og þroski.

Eftir áramót mun allt starf fara af stað. Þangað til er aðaláhersla lögð á kynningu á samtökunum í fjölmiðlum og á vinnustöðum og á söfnun nýrra félaga. Samtökin leggja á það aðaláherslu, að treyst verði á samtakamátt fjöldans fremur en gerðir einstaklinga eða ráðamanna í viðkomandi baráttu.

Dagvistarsamtökin hvetja fólk til að taka þátt í baráttunni og ganga í samtökin. Skráning fer fram í síma 35904 og 28186.

## Kennarar...

Framh. af forsíðu

GK: Já auk kennara í skólum Mosfellssveitar. Reyndar byrjaði þetta þannig að við fengum bréf frá skóla einum í Reykjavík þar sem tekið var fram að kennarar þar væru að hugsa um að taka sér, eins og það var orðað,"mánaðarleyfi þann 8. nóv. í baráttuskyni". Það voru send út bréf í alla skóla í Reykjavík og nágrenni ef ekki gera slíkt hið sama. Við hér í þessum skóla ákváðum að gera þetta, og sendum bréf til hlutaðeigandi aðila, til stjórnar út á land einnig um það hvort viðkomandi skóli vildi ekki SÍB (samband íslenskra barnakennara), til menntamálaráðherra og ráðuneytis o.fl. og tilkynntum þeim að við ætluðum að taka okkur þetta mánaðarleyfi, sem sagt að fara í óleyfilegt verkfall. Þetta ákveðum við áður en við heyrum nokkrar línur frá öðrum skólum. En svo kemur á daginn að Reykjavíkurkennarar eru búnir að snúa við blaðinu. Þeir ætla sér að vísu að fella niður kennslu þennan dag en ætla að snúa honum upp í almennan baráttudag, einhvern almennan fundardag þar sem þeir ætla að ræða sín kjaramál. Við stóðum við það sem upphaflega var talað um. Við gátum alltaf rætt um kjaramálin. Það var ekki nauðsynlegt að nota endilega þennan dag í það. Við vorum að taka okkur þau mánaðarfrí sem búið var að taka af okkur. Í fjölmiðlum var ekkert minnst á það að kennarar væru að fara í verkfall vegna mánaðarfríanna. Upphaflegi tilgangurinn týndist alveg.

Vbl: Hvernig voru viðbrögðin hjá SÍB við þessu.

GK: Þeir lýstu því yfir að þeir teldu sig ekki geta haft neina forystu í þessu og hafa marglýst því yfir að þetta hafi komið "neðan frá", frá fólkinu í skólanum og einstökum kennarafélögum. En þeir gáfu út einhverja yfirlýsingu um það að þeir lýstu yfir samúð með þessum aðgerðum.

Vbl: hvernig verður áframhaldandi baráttu ykkar háttað?

GK: Svæðasambandið hér KKK þ.e. Kennarasamband Kópavogs og Kjósasýslu(Seltjarnanes tilheyrir því einnig) gekkst fyrir könnun í skólum á svæðinu um það, hverjir vildu taka þátt í aðgerðum um jólin þ.e. fara í gamla jólafríið og fara í fimm daga óleyfilegt verkfall. Niðurstöður könnunarinnar var sú að 65% kennara á svæðinu vildu fara út í aðgerðir. Svæðasambandið telur aftur á móti að það þurfi 80% kennara með til að möguleiki verði á því að hefja óleyfilegt verkfall. Ekkert verður því gert í bili en beðið næsta mánaðarfrídags með hugsanlegt verkfall þá.

Vbl: Hver eru höfuðmál ykkar barnaskólakennara í dag?

GK: Höfuðmál okkar verða að bíða samninganna í sumar 1. júlí, en þá verða samningar hjá BSRB. Langstærsta mál okkar þá er þetta með kennaraprófið, sem er aldeilis óheyrt. Kennaraprófið frá gamla kennaraskólanum er metið mörgum, mörgum stigum lægra en prófið frá kennaraháskólanum núna. Þegar fólk tók hitt prófið þá átti það ekki kost á neinu meira námi. Þetta er alveg einsdæmi að fólk sem hefur eldra próf í einhverju fái lægri laun en þeir sem hafa yngra prófið. Í samningunum í sumar leggjum við aðaláhersluna á að leiðrétta þetta atriði.

Annað höfuðatriðið sem við tökum einnig fyrir þá er að fá kennarastarfið metið sem löggilt starf. Það er ekki verndað í lögum. Alls staðar er hægt að ráða réttindalausa kennara. Úti á landi bæði í sveitum og á stærri stöðum er urmull af ómenntuðum kennurum. Ég er ekki að segja að þeir þurfi að vera neitt ófærari kennarar. Alls ekki. Það er alveg nóg af réttindakennurum í landinu en þeir fara bara ekki í kennslu. Þeir leita heldur að betur launuðu starfi. Ef kennarar vilja sýna óánægju sína með því að hætta kennslu þá virðist ekki vera nein vandræði að ráða í þeirra stað. Réttindalausir kennarar standa þannig kennarastéttinni mjög fyrir þrifum. Þeir veikja stéttina. Við viljum að þeir kennarar sem hafa kennt árum saman réttindalausir eigi kost á að afla sér réttina.

Þriðja höfuðmál okkar í samningunum í sumar er að krefjast samræmingar á kennsluskyldunni. Þetta er algjör firra eins og þetta er núna. Þegar búið er að gera alla bekki grunnskólans að einum skóla og krafist sömu menntunar af öllum kennurum hans þá er það hlálegt að það sé ætlast mismunandi kennsluskyldu. Kennarar í neðri bekkjunum hafa nú þremur tímum meiri kennsluskyldu en kennarar í efri bekkjunum. Við krefjumst auðvitað sömu launa fyrir sömu vinnu.

Vbl: Hvaða lærdóm hafið þið svo dregið af þessari baráttu ykkar?

GK: Mikinn lærdóm. Margt fólk sem ekki hefur hugsað nokkurn skapaðan hlut um kjaramál er farið að hugsa um þau núna og orðið sér miklu meðvitaðra um það hvar það stendur. Mér finnst ótúlegasta fólk vera farið að sýna samhug og að það vilji eitthvað á sig leggja.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ
ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST!

Málgagn EIK(m-l)

LAUGAVEGI 178, 2. HÆÐ
POSTHÓLF 5186, REYKJAVÍK
SÍMI 84210 - 35904

Gerist áskrifendur

Stuðningsáskrift: kr. 2500 Ársáskrift: kr. 1500
Hálfársáskrift: kr. 800

Áskrift greiðist á gíró 12200

Félagi Sigrún Huld Þorgrímsdóttir var viðstödd þing Flokks Vinnunnar í Albaníu í nóvember fyrir hönd EIK(m-l), en samtökin tóku upp full tengsl við albanska bróðurflokkinn í apríl s.l.

## 7. þing Flokks Vinnunar í Albaníu:

# Staðfestir glæsta sigra byltingarinnar

Borgaralegu fjölmiðlarnir hafa klifað um einangrun Albaníu og um harðstjórn og fátækt sem ríki í landi þessu, í kjölfar þingsins. Það er væntanlega ekki tilviljunin ein sem ræður því að lygar einar og fals eru bornar á borð fyrir almenning, þegar stjórnkerfið í þessu litla landi er til umræðu. Svo miklir eru yfirburðir hinnar sósíalísku Albaníu fram yfir auðvaldsríkin í heiminum.

Við spurðum Sigrúnu Huld um það, hve þýðing þess væri fyrir íslenska kommúnista að hafa traust samskipti við kommúnista í Albaníu og annars staðar í veröldinni.

- Við íslenskir kommúnistar getum margt lært af félögum okkar í Albaníu og baráttu þeirra. Því leggjum við áherslu á traust samskipti við þennan bróðurflokk okkar. Á þinginu fékk ég tækifæri til þess að fylgjast með úttekt albönsku félaganna á þróuninni síðustu árin, bæði innanlands og á alþjóðavettvangi, svo og þegar þingið staðfesti áætlun um framleiðslu og pólitíska baráttu til næstu fimm ára. Þá hafði ég tækifæri til þess að hitta að máli fulltrúa marx-lenínískra flokka og samtaka frá flestum heimshornum og voru þar lögð drög að beinum tengslum EIK(m-l) við þessi samtök, en sambönd við önnur treyst. Þetta þing albananna var í raun öðrum þræði heimsþing þeirrar heimshreyfingar marx-lenínista sem nú er í mótun. Ég tel því að einmitt þessi þáttur þingsins hafi einnig verið mjög mikilvægur fyrir okkur.

Vbl.: Fjölmiðlar á Íslandi slógu því upp á meðan á þinginu stóð, að Albanía hafi nú "rekið smiðshöggið á einangrun landsins" með þinginu og að "sambúðin við Kína hafi nú kólnað mjög". Hvað er um þetta að segja?

- Félagi Enver Hoxha svaraði þessari spurningu sjálfur á þinginu, þegar hann sagði, að afturhaldið áliti landið einangrað, þar sem landið væri lokað innrásum í líki auðmagns, fyrir ferðamannaflaumi og fyrir njósnarapakki alls konar. Landið er einnig lokað fyrir úrkynjunarmenningu Vesturlanda. Albanía er því algerlega einangruð í þeim skilningi að landið er einangrað frá heimsvaldastefnunni í öllum myndum hennar. Albanía er opið land fyrir heiðarlegu og réttsýnu fólki, vinum albanska fólksins, þrátt fyrir að skoðanir allra þeirra falli ekki nákvæmlega í sama far og ríkjandi hugmyndafræði í landinu. Albanía hefur stjórnmálatengsl við 74 ríki í heiminum (þar á meðal Ísland) og hefur viðskipti við lönd víðsvegar um heim. Undantekning frá þessu eru Bandaríkin, Sovétríkin, Spánn, Ísrael og nokkur ríki til viðbótar þar sem ríkjandi stjórnarfar er fasísmi.

Hvað "kólnandi sambúð við Kína" viðkemur, þá er það aðeins eitt atriðið til viðbótar sem staðfestir fyrir okkur "áreiðanleika" vesturheimskra fréttastofa. Enver Hoxha fjallaði sérstaklega um vináttu Kína og Albaníu í sinni ræðu. "Lönd vor og alþýða þeirra eru vopnabræður" sagði hann, "og ekkert getur orðið til þess að setja blett á hina marx-lenínísku vináttu".

Þessu til viðbótar minni ég á kveðju kínverska kommúnistaflokksins til þingsins, en þar lýstu kínversku félagarnir ánægju sinni með árangur albönsku félaganna og undirstrikuðu vináttu flokkanna og alþýðu beggja landa.

Vbl.: Flokksþingið lagði sérstaka áherslu á það að styrkja þá stefnu Albana að bjarga sér einir og óstuddir efnahagslega og pólitískt.

- Já, það er afar mikilvægur þáttur í stefnu Albana - að vera sjálfum sér nægir. Enver Hoxha tilkynnti í ræðunni, að Albanía væri í fyrsta sinn nú í ár, sjálfri sér næg í framleiðslu brauðmetis. Uppskera ársins var enda 30% meiri nú en í fyrra. Albanski landbúnaðurinn þróast mjög hratt og lögð er áhersla á það hraða uppbyggingarstarfi í sveitunum. Þá má nefna að nú er nýlega tekin til starfa stór járn- og stálverksmiðja og Albanir hafa því hafið framleiðslu eigin stáls. Þingið hvatti landsmenn til þess að leggja mikla áherslu á að þróa vinnslu á olíu, gasi og málmum í Albaníu.

Vbl.: Enver Hoxha fjallaði talsvert um alþjóðahreyfingu marx-lenínista, er það ekki afar mikilvægur þáttur, hvað okkur varðar?

- Þetta er rétt. Hoxha sagði að marx-lenínska hreyfingin í heiminum hefði þróast mjög jákvætt undanfarið. Flokkar og samtök hefðu verið mynduð í flestum löndum og kommúnistar væru að festa rætur í baráttu fjöldans. Flokksþingið lagði áherslu á að styrkja enn tengsl innan hreyfingarinnar, án þess þó að nein hreyfing lyti valdi annarrar. Hoxha drap einnig á það í viðtali, að nauðsynlegt væri að hefja umræðu um stóran alþjóðlegan fund marx-lenínískra flokka og samtaka.

Ég held að óhætt sé að segja að þingið í Albaníu hafi markað nokkur tímamót fyrir okkur íslenska kommúnista í EIK(m-l) og íslenskan verkalýð og alþýðu. Við höfum fundið enn einu sinni, að barátta okkar hér er ekki einangruð, heldur er hún háð um heim allan og við eigum vini og samherja í hverju landi.

# VERKALÝÐSBLAÐINU HÓTAÐ MÁLSSÓKN!

## Bíldudalur

Greinin sem Verkalýðsblaðið birti í 10. tbl. og fjallaði um ástandið á Bíldudal og þátt ríkisvaldsins þar, hefur vakið mikla athygli manna og varð til þess að borgarablöðin neyddust til þess að gefa því gaum. Það varð þó ekki vegna samúðar með verkafólki á Bíldudal, sem verður að þola atvinnuleysi og harðar atlögur ríkisvaldsins að lífsgrundvelli þess, heldur voru borgarablöðin aðeins í gamla leiknum - að fiska eftir hneykslissögum og slúðri til að gera blöðin að girnilegri söluvöru. En öllu sem skrifað hefur verið í borgarapressunna um ástandið á Bíldudal er það sammerkt, að þar eru málin þvæld og rangfærð á allan hátt, þannig að kjarni málsins er viljandi dulinn lesendum og "óbreyttir" lesendur eru litlu nær eftir lesturinn. Til dæmis sneiða borgarablöðin algerlega fram hjá þætti ríkisvaldsins í þessu máli og hlutur Framkvæmdastofnunar ríkisins er gerður minni en tilefni er til. Karl Bjarnason fulltrúi Byggðasjóðs hótaði Verkalýðsblaðinu málssókn vegna greinarinnar í 10. tbl., en hann hefur samt ekki enn gert alvöru úr þeirri hótun sinni. Er það ef til vill vegna þess að erfitt gæti reynst fyrir hann að skýra ýmsa hluti fyrir rétti, ef af yrði? Já, sú er einmitt ástæðan.

Því segjum við nú, að þrátt fyrir allt moldviðrið sem þyrlað hefur verið upp í kring um Bíldudalsmálið, þá standa mörg meginatriði óhögguð:

1. Þegar er hafin fólksflótti frá staðnum og útlit er fyrir að ekki muni rætast úr með atvinnuástand á næstu mánuðum.

2. Þessi þróun er að miklum hluta afleiðing af "byggðastefnu" Framkvæmdastofnunar ríkisins - fulltrúi hennar Karl Bjarnason hefur unnið starf sitt vel (samanber yfirlýsingu frá Framkvæmdastofnun í byrjun desember, þar sem Karli er hælt á hvert reipi fyrir starf sitt "fyrir Bílddælinga"!).

3. Karl Bjarnason hefur enn ekki gert grein fyrir "rýrnun" á sjóði frystihússins á Bíldudal, en hún nam litlum 4 milljónum.

4. Ástandið sem skapast hefur, er alls ekki háð til-

framh. bls. 5

# Oft er þörf nú er nauðsyn!

## Dagheimili á Akureyri

Það er víðar skortur á dagvistunarplássum en í Reykjavík. Á Akureyri er mikill skortur á þeim. Þar eru nú rekin tvö dagheimili, Pálmholt sem tekur 52 börn og Stekkur dagheimili Fjórðungssjúkrahússins á Akureyri. Þar fá aðeins börn hjúkrunarkvenna og meinatækna aðgang, en yfirleitt ekki sjúkraliða - eða börn gangastúlkna. Á þessu heimili eru skráð 60 börn en þau eru aðeins hálfan dag í einu og er því pláss fyrir 30 börn á heimilinu í einu. Bærinn rekur Pálmholt og tvo leikskóla Árholt og Iðavöll. Í leikskólunum er pláss fyrir 129 börn. Þessi þrjú heimili eru mjög illa staðsett í bænum, eina dagheimilið efst í bænum, leikskólarnir nyrst og neðst. Þurfa margir foreldrar að fara langar leiðir með börn sín, en strætisvagnasamgöngum í bænum er mjög ábótavant svo ekki sé meira sagt.

Biðlistar.

Langir biðlistar eru við hvert heimili. Í leikskólunum eru um 160 börn á biðlista og 20 á Pálmholti. Á Stekk eru engir skráðir biðlistar en vitað er að þörf sjúkraliða og gangnastúlkna er mikil fyrir dagvistunarpláss. Sennilega mundu aðurnefndir listar vera mun lengri ef fólk héldi að það hefði einhverja þýðingu að sækja um.

framh. bls. 5

## FÓLKIÐ SKAPAR FRÉTTIRNAR

Áætlað er að útgáfutíðni blaðsins aukist á næsta ári.

| | | |
|---|---|---|
| Stuðningsáskrift | kr. | 2500 |
| Ársáskrift | " | 1500 |
| Hálfsársáskrift | " | 800 |

Nafn.......................

Heimilisfang...............

...........................

...........................

VERKALÝÐSBLAÐIÐ Laugaveg 178

## VERKALÝÐSBLAÐIÐ BIRTIR ÞÆR

# 1/2 MÁN. BLAÐ '77!

200 Áskrifendur — 200 þ. Krónur

108 — 109748

Þannig er staðan í söfnuninni okkar í byrjun desember. Fjársöfnunin hefur ekki gengið nógu vel, en áskriftarsöfnunin hefur hins vegar tekið vel við sér. Herðum enn róðurinn félagar, ½ mánaðar-blað 1977!